a fiøll/ad þeir geingu fra
a hædena/ þeir gleymdu þr
7 Aller sm̄ fundu þa/ æt
fiandmeñ søgdu: vier høfu
þui ad þeir hafa syndgad i
ne i riettlætesens heimkiñ
Drottne þra fedra von.
8 * Flÿed ut af Babylon
af Chaldæaña lande / og
rar fyrer eiñe hiord. * c.
9 Þui siaa/ eg uppvek/ z l
yfer Babylon eiñ hoop sto
nordur lande/ z þeir skulu h
se heñe / þar fyrer skal hu
þeirra ørvar eru sm̄ eins g
mañs/ þar skal ecke ein bre
10 Og Chaldæans(land) s
ræne/aller sm̄ þad ræna/ sk
seiger Drotteñ.
11 Af þui þier gløddust /

Nimenſens hornum koma
/ z burtkvijſtra þm̄ i alla
vinda / og þar ſkal eingen̄
/ til hvørrar ei ſkule koma
þm̄ burtdrifnu af Elam.
vil ſkelfa Elam fyrer kra
/z fyrer k m̄/ſm̄ ſtunda ept.
/ og laata olucku koma yfer
e haſtarlegre reide / ſeiger
g * ſenda ſverded epter þm̄/
hefe fyrerfared þm̄.
* 3. Moſ. 26/ 33.
vil ſetia min̄ ſtool i Elam/z
eg laata fyrerfara konungū
gium / ſeiger Drotten̄.
o ſkiedur a þm̄ ſijdnſtu døg.
g ſnua Elams fangelſe/ſeig
i. * c. 48/ 47.

L. Capitule.

omur i moote Babylon.

Pad

# Davids
## Psaltare
Med
Formala D. Marth. Luth. og þeirre stuttre Suñu etur jñehallde sem hañ hefur giört yfer sierhuörn Psalm.

Prentadur a Hoolum j Nialllta dal/ Epter Bon z Forlæge þess Froma/ Veluijsa E/ ruverduga Heidurs Manns/ Thorleifs Magnus sonar ad Hlijdarenda.

Anno 1 6 4 7

# Formaalen yfer Psaltarann.



Arger Heilager Fedr hafa þeñan Psaltara / siet deilis framm yfer adrar Bækur heilagrar Ritningar/miog j heidre hapt & elskad. Og ad soñu/þa lofar sialft Verked siñ Meistara noglega Ei ad sijdur þa hliotum vier & eirnen hans Lof & vora Þackargiord ad ita & þar til ad leggia.

Meñ hafa nu j mørg vmlideñ Aar/ med Hondum haft miog m·rgar Legendr vt af Heilogum Monnum/sem voru fra Pijslarvættis/& Æfentijra Bækur/& Lijf sogur / medur huoriar þeir hafa vppfyllt allan Veralldar Heimeñ/so þ Psaltaren var fyrer þañ skulld vnder Fotskørum/og j slijkum Myrkrum falen/ so þad Menn vnderstodu varla eirn Psalm riettlegana/ Og þo gaf hñ samt eirn frabæran forkostulegan Ilm vt af sier / so þ øll Gudleg

Good

Godþws Hiørtu þeingu vt af þeim somū okiendum Ordum neckurn Krapt/ z þar fyrer hofdu þeir Bokena Psaltarans sier so Hiartkiæra.

Eñ eg helld / þad eingen Legenda ed ur Sagnabok Heilagra/ sie hier a Jardrijk ke ægiætare komen/ edur koma kuñe/ helld ur eñ þ Psaltareñ er. Og þo ad vier ætt um nu ad æskia þss/ þ vt af øllum epterdæ mum/ Lesbokum og Lijþsogum Heilagra/ yrde hid besta vtlesed/ z til samans dreiged z vti hiñ besta mata sett z samed/ þa hl yti þad þsse hiñ same Psaltaren ad vera. Þuiad hier iñe fiñū vier ei alleinasta/ hu ad eirn edur tueir Heilager hafa giort/ Helldur z eirnen huad Hofuded sialft all ra Heilagra þa giort heþur/ Og þ huad eñ aller Heilager Meñ þeir giøra. Huor nen þeir haga sier vid Gud/ vidur Vin og Ovin/ huorsu ad þeir hegda sier z breyta vti allskyns Hæskasemdū z Motlæte. Ad auk þss er þad/ ad þar iñe standa allshatt adar Gudlegar z heilsusamlegar Kieñin gar og Bodord.

 Og

Og þar fyrer ætte Psaltaren hellst Dyrmætur z Niartkiær hallden ad vera/ þad hañ Jesu Christi Dauda z Vppristu suo klarlegana vtskyrer/ z fyrer seiger/ og hans Rijkisstiornan og allrar Christneskar Stiett z atferde lioslega fyrermyndar/ so þad hañ mætte vel kallast hin minne Biblia/ huorre þad hid ægiætlegasta jñe luckt z j stuttu mæle yfer fared er/ allt huad vtt hiñe meigen Bibliuñe þa stendur/ z er so vtt eirn ægiætligan Enchiridion/ edr litla Handbok saman sett/ z tilbwen. So ad mier lijst/ sem Heilagur Ande hafe sialfur viliad þessa Mædu vpp a sig taka/ z þad so sijdan j eina stutta Bibliu z Frædebok vt af allre Christneñe/ edur ollum Heilogum Moñum til samans ad lesa. Suo ad hañ huor ad ecke kyñe alla Bibliuna yfer ad lesa/ þa heþde hñ mestu leite/ þ allt hier jñe luckt j eirnre lijtellre Book/ huad Biblian heþur j sier ad hallda.

Eñ vmfram allt þetta/ er þad Psaltarans ægiætleg Dygd z Art/ Þar ed adrar Bækr saman draga margt vtaf Verkum

Heila

Heilagra Manna/ Enn skyra miøg fætt vt af þeirra Ordum/ huar fyrer ad Psaltar en er nu ein ægiæt/ frabær z forkostuleg Bok/ huør ad þar fyrer so godan z sætan Ilm af sier giefur/ nær ed þar verdur jñe lesed/ So þad hañ ecke alleinasta frammel ur Verkeñ Heilagra/ helldur jafnuel þeir ra Ord/ huørnen ad þeirra Mæle hefur vered vared vid Gud/ z huørnen þad þe ir hafa hñ tilbeded/ z huørsu þeir eñ nu vidur hañ mæla/ z hañ tilbidia. So þad adrar Lesbækur z Dæmesøgur vt af Hei løgum / ef ad vier hølldum þeim til sam ans vid Psaltaran/ þa vtskyra þær oss ec ke vtan so sem dimt z dauft atferle Heila gra/ hia þui sm̃ Psaltareñ giører/ þuiad hñ fyrermyndar oss Riettferdugt/ lysteleg t athæfe fra lifande Heilagra Mañ.

Med þui eirn Mællaus Madur j hia eihum veltalanda Manne/ er ad mestu suo reiknande s halfdaudur Madur/ Og eck ert froptugra z ægiætara Verk er a Ma nenum/ eñ Tungumæled er / med þui ad Madureñ verdur helst fyrer þad fraskil

 enn

eñ øllum Skynlausum Skiepnum/ ad hñ
hefur Mæled/ framarmeir eñ fyrer adsk j
lianleik yferlitaña edur fyrer adra Verks
hætte. Med þui ad eitt Trieliknesk̃e ẽaſt
eirnen ad hafa ꝥ Smidsins Naglcik ei
na Mans Asian/ z yfermynd/ z skynlaus
Dyr kuñq ad sia/ heyra/ virda/ syngia/ ska
nda og ganga/ eta/ drecka/ fasta/ hungra
og þyrsta/ Kulda z Nardinden ad lijda/ so
vel sem Madureñ.

Nier ad auk þa giører Psaltaren þar
eñ meira til/ Þad ad hñ frãmsetur oss ecke
ad eins þa empalldlega almeñelega Ræ
du Heilagra Maña/ Helldur þa hinu all
ra bestu þeirra Rædu/ sem þeir vt af mik
elldre aluoru/ j þeim sijnum allra stæstum
Naudsynium hafa talad vidur sialfann
Gud/ Huar med hañ ei allernasta greiner
fyrer oss þeirra Ord yf' þeirra Verkum/
helldur jafnuel eirnen þeirra Hiørtu z jñ
elegt Þel/ og Fiesiod þeirra Sæalna/ So
ꝥ vier af Gruñe z Vppruna þrra Orda
z so Verka/ kuñum ad sia jñ j þeirra Hia
rta/ huørn þancka ad þeir hafa haft/ Og
huør

huornenn þad þeirra Hiarta þad hefur ſi
er breytt og hagad/ j allshattudum tilfer
lum/ Maſkaſemdum og Anaudum. Huad
ed ecke giora nie giora kuña þær Lypſo
gu Bækur edur Dæmeſogur/ huortar ad
eins miked hallda vt af Jardteiknum og
Verkum heilagra Manña. Þuiad eg kañ
ei ad vita/ huorſu hans Hiarta er hattad
þo ad eg til lijka heyre edur ſiae vt af ein
um/ morg frabær z ægiætleg Verk.

Og lijka ſo ſem þad eg kiora helldur ad
heyra einn Heilagan tala/ eñ ad ſia hans
Verk/ So villda eg enn myklu helldur faa
ad ſia hans Hiarta/ z þañ folgeñ Fieſiod
j hans Hugſkote / helldur eñ þad ad hey
ra hans Ord ad eins. Eñ Pſaltarin gief
ur oſſ þetta hid koſtgiæfelegaſta a Guds
Heilogū til ad ſkilia / ſo þ vier kuñum nu
fullvijſer j þui ad vera/ huornen þra Hia
rta hefur hattad vered/ og huornen þad
þeirra Ord haþa hliodad vid Gud / z vid
huorn Mañ. Þuiad Mañſins Hiarta er
ſo ſem annad Hafſkip j Storbylgiudum
Sio / huort ed ſtrijder Stormuindar burt

 vt fior

vt fiorum Heimsins Alfum hrista/hrekia og pordrÿfa. Hiedan æsteyter þad nu Hr ædslan og æhyggian pyrer epterkoman de Ogiæpu/ Þadan ad kiemur Hugarang ur vegna nalægrar Ogiæfu/ Hiedan ad su eimar vænting z Optraust epterkomande Hamingiu z Audlegdar/ Þadan ad blæs Druggleike og Fognudur j nalægum Au dæfum og Rÿkdome.

Soddan Stormuindar þr læra Mañen med aluoru ad tala/og hans Hiarta j lio se ad læta/z Grundvellenum Hiartans vt ad ausa. Þuiad huor hañ velkest j Otta blendine z Mañraununum/ sa seiger allt añad vt ap Hamingiuleysenu/ helldur eñ þad hiñ añar/sem vti allskyns Veralldar sæluñe sueimar. Þui huor hñ sueimar nu j allre Heimsins Blÿdu/ sa talar allt añad z dycktar vm Giæpulaned og Sælu na/helldur eñ þad hinn annar sem velkest j Hrædslu og Hrygdunum. Þui so seigia Menn/ad þ sie ecke vt af Hiarta/þad hiñ Sorgpulle skule hleiged gieta/og hiñ Gl aduære græted/Þuiad hñs Hiartans Gr

uñ þ

uñ þad vpplykur sig ecke / z þad flytz ecke
þadan.

Eñ huad er annad j Psalltaranum / vt
an slijk ein aluarleg Ræda / j allshættudū
soddan Stormuidrum? Huar finum vier
ægiætare Ord vtaf Fognudenum / eñ þau
sem þeir Lofsongs z Packlætis Psalmar
ner hafa jñe ad hallda? Þar sier þu ollū
Heilogum jñ j sialpt Hiartad / huørsu æ
giætleg z lystileg Blomstur þar vp sprett
ta / so sem vti einum fogrum z lystelegum
Jurtragarde / jæ / vti Himnarijkenu sialfu
og þad sama vtaf fogrum z gladuærum
Hugrenningum / vid Gud og alla hñs Vel
giørninga.

Enn þar huert j mot / Huar finnur þu
diupare og dapurlegre og aumlegre Ord /
vt af Hrygdenñe / eñ so sem þad þeir æklog
unar Psalmarner hafa jnne ad hallda?
Þar sier þu eñ ad nyu ollum Heilogum j
Hiartad / sem j Daudanū / ja so sem j Hel
uijtenu / Huørsu dapurt dymt z myrkt þ
er / vt af allshættadre hryggelegre mvijs
an Guds Reide. Med sama hætte z eirn

 nen

nen/huad er þeir tala nu vt af Hrædslun
ne edur Voneñe/þa tÿdka þeir soddan ord
þad eingeñ Mælverks Madur kañ þier
þa sømu Von edur Hrædslu so skilmerkele
ga vt ad mæla/sem þeir giøra/og eingen
Cicero edur Mælsku madur kañ þier þañ
en þetta so þyrer ad mynda.

Og(lÿka sem ædur er sagt)þa er þad ei
rna best/ad þr tala soddan Ord til Guds
og vid Gud sialfan/huar af þad skiedur/
ad tusfalldleg aluara z Lÿfed er j þm̃ sø
mu Ordum. Þui huar ed añars j soddan
efnum Madur vid Mañen talar/ þar fr
am̃geingur þad ecke so øfluglega vtaf Hi
artanu/ Breñur ecke/ lifer ecke,z þreyng
er ecke so fast þar vt i giegnum.

Þar af Kiemur og eirneñ þetta/ ad Ps
altareñ er eirn Bæklingz allra Heilagra
Mañа. Þui huør sm̃ eirn/j huøriu hellst
tilferle hañ er staddur/þa fiñur hañ Psal
ma og Ord þar jnne/sem hlioda til vidur
hñ og hans Mælefne/ z eru honum suo
samhliodande/so sem være þau ad eins ha
ns vegna þar jñ sett/ so þad hñ sialfz kañ
þui

þui ei hefur til vegar ad koma/nie þar vp
pa ad stãa/edur añars betra sier ad æskia
Nuad hid sama einnen/ þa er þar gott og
nytsamlegt til/ ad einum j gied falla sodd
an Ord/og þaug samhlioda hans Hiarta
ns þele og Mælefne/ þa ma hañ þar af
vita/ad hañ er vti samþielagskap Heilag
ra Mañã/og þad ollum Heilogum hafe
so veitt sem honum vegnar/ med þui þeir
þylia aller sama Ood med honum. Eink
um sierdeilis fyrst hñ kañ so ad tala vidur
Gud/lijka sem ad þeir hafa giort/ huad ed
j riettre Tru hlyfur ad skie/ Þuiad einum
Oguðhræddum smackast þaug ecke.

Ad sijdustu þa hefur hañ j Psaltaran
um þañ Druggleika/ z eitt vel forvarad
Leyfe/so þad þu matt ollum Heilogum ꝥ
vtan Hæskasemd / þar jnne epterfylgia/
Þuiad þær hinar adrar Dæmesogur og
Sogubækur/ vt af þeim Mælausum He
ilogum/ framstelia marghattud Verk/ þᵘ
ed vier giefum ei epter þeim giort/ Og eñ
þau onnur mykłu fleyre Verk/ þa greina
þær sem hæskasamleg eru epter ad fylgia/

 z opt

z oplast vppkueikia sundurþyckiz z Vill udoma/z fra samfielagc Heilagra j burt slijta og fra leida. Enn Psaltaren hañ helldur þig j burt fra Villudomunum/til samfielagskapar heilagra Mañ/Þuiad hañ kieñer þier/j Fagnadenum z Medlæ tenu/j Ottanum j Voneñe / og Hormun geñe/lijka siñudum ad vera/og eins ad ta la/so sem þad allèr Heilager Meñ hafa siñader vered/og so s ad þeir hafa talad.

Og j stuttu Maale yfer ad fara/Villtu nu sia heilaga Christelega Kyrkiu vtmaa lada/medur lifande Einkieñing og Yfer litum/j sieluekta j eirnre lijtellre Liknesktis Mynd/Þa tak þu Psaltaran(og yfersko da hañ vel og glögglega) þui þar hefur þu eirn fijnan skiæran og skygnan Speig el/sa ed þier vtuijsar/ huad Christendom ur er. Ja/þu munt z eirnen þig sialfan/z þ sañа Gnothiseauton þar jñe fiña/Þar med Gud sialfan z allar hñs Skiepnur.

Þar fyrer þa lætum oss nu eirnen so til sia/ad vier giörũ Gude Þacker fyrer slijk hans ovmrædeleg Audæfe/z þad vier mz

tökum

tokum jdkum og vm Hend höpum þaug
hinu somu vt af allre Kostgiæfne z alus
rugiefne/ Gude vorum til Lofs z Dyrdar/
So ad vier medur voru Opacklæte forþi
enum ecke þad huad vetra er. Þuiad ad
ur fyrre a Myrkuaña tijmum/ huor ægiæ
te og snilld þad hefde halldet vered/ huor
hñ hefde kuñad eirn Psalm riettelegana
ad skilia/ og vti skilianlegu Moodurmæle
hñ ad lesa edur heyra? Og þo hefur þñ
þess ei kostur vered. Eñ nu eru sæl þaug
Augu sem sia huad vier siaum/ z þau Ey
ru sem heyra þ vier heyrum/ Eñ eg vttast
ad soñu/ ad oss mune lijka so fara/ sem þ
Gydingunū for a Eydemorkeñe/ þa þeir
so sogdu vt af þui Himnanijolenu/ vorar
Saler hafa vidbiod vidur þessare liettust
tu Fædu. Eñ þ ætlum vier z eirnen ad vi
ta/ huad er þar j hia skrifad stendur/ huor
nen ad þr voru plægader/ z hnigu Daud
er nidur/ ad oss bare ei eirnen lijka sm þm.
Til þess hins sama þa hialpe oss Gud
Almattugur/ Faderen̄ allrar Nædar og
Myskunar/ fyrer Jesum Christum DR

DTTin vorn/ huørium ad ſie Dyrd og Vegſemd fyrer þeñan Norrænu Pſaltara/ ꝛ fyrer alla hãs otelianlega oum rædelega Velgiorninga ad eilijfu/ AMEN.



# Summaria yfer allan Pſaltaran.

## D. Marth. Luth.

MEnn ſkulu þad gaumgiæꝼa ad Pſaltaren allur talar v̄n ꝼim̄ hlute/þar ꝼyrer ſkiptum vier hønum ı ꝼim̄ parta.

1 Fyrſt eru þar nøckrer þeir Pſalmar/ſem ꝼyrer ſpaa/annadhuørt vm Chriſtum eda vm Chriſtelega Kyrkiu/eda vm þa enu Heiløgu huørnen þeim mune vegna/ ꝛ ct. Og hingad hnyga aller þr Pſalmar ſem haꝼa Fyrerheit ıñe ad hallda þeim

Godu

Godu til Landa/ z þeim Ogudlegu til þotunar/ og eru þ þesser epterþylgiande/ sa 2.8.9.14.16 19.21.22.24.29.40.45.47.53.67.68.72.87 89.93 95.97.98.100.110.113. 117.
2 Þar nest j aňan mata eru þar nøckrer Lær doms Psalmar/ sem kieňa oss huad vær eigum ad giøra og læta ogiørt epter Guds Løgmæle / Og hingad heyra aller þeir Psalmar sem þordæma Maňa Lærdom/eň þrosa Guds Orde/suo sem ad er sa 15.32.36.49.50. 51. 62.73.77.78. 90. 99.101.127.131.133.134.
3 J þridia lage eru þar nøckrer huggunar Psa lmar/sem ad hugga og hughreysta þa Sorgfullu og plagadu j Christendomenum/ Og þar aptur huert a mote strapþa og skielþa Tyraňana/z þa yþergangs sømu. Hingad hnyga aller þeir Psalm ar sem hugga oss og amiňa til þolenmæde/z avid ta þa omilldu Tyranna/z eru þ þesser/sa 1.4.37 39.52.58.75.82.84.91.92.112.119. 121.128.
4 J Fiorda lage eru þar nøckrer Bæna Psalm ar/j huoriu Meň akalla Gud z tilbidia hň/j alls konar alyggiande Naudsynium / og hingad hny ga aller þeir Psalmar sm særlega klaga z kueina yþer Ovinu voru/ so sem er sa 3.4.6.7.10.11. 12. 13.17 20.22.25.26. 27.28. 30.35.36. 40. 41.42.43.44.54.55.56.57.58.59.61.63.64 69.70. 71.73.74.75.77.79.80.83.85.86.88 94.104.106.114.116.123.130.132.137.140.141 142. 143.
5 J þimta mata eru nøckrer Packargiørdar Ps almar j huørium Meň heidra og prysa Gud þyr er allskonar velgiørninga Hialp og adstod/Hing ad

ad hlyda allir þeir Psalmar sem prijsa Gud j ha
ns Giørningum/ og þsser eru þeir ypparlegustu/
z þeirra vegna er Psaltaren giørdur z dyrkadur
Huar þyrer ad hann kallast og so vppa Ebresku
Sepher tehillim/ þ er Lofgiørdar Bok/eda þack
latis Book / og eru þessþattar Psalmar þesser/
sa 18. 23. 27. 30. 31. 33. 34. 46. 48. 60. 65. 66. 76
81. 103. 104. 105. 106. 107. 108 111. 114. 115. 116.
120. 122. 124. 125. 126. 135. 138. 139. 144. 145. 147
148. 149. 150.

Samt og ædur skulu Men vita/ad Psalmarner
med sterþuørtum synum Versum/og Smægreinu
kuña ecke so grañkanlega sundur ad skiptast/ j þess
ar þim Tegunder/ Þui þar þiñast stundum j einu
og hinum sama psalme/ tueir/þrijr/z so jaþnuel
þeir þim hluter edur Tegunder/sem ædur eru vpp
reiknader/ so ad j sama Psalme þinst bæde Spaa
domur/Lærdomur/Huggun/Bæn z Packargiørd
allt til samans/ so sem sia ma ad skiedur j þeim
4. 9. 14. 22. 27. 30. 31. 35. 37. 39/ 40/ 51/ 53/ 69/
71/ 73/ 77/ 99/ 109/ 118/ 119/ 142/ 146.

Enn su er Meiningen/ad Men vite þar þyrer
ad Psaltaren heþur þessa þimm hlute edur Parta
jnne ad hallda/ so ad þeir kynne þess helldur ad
komast j Skilning vm þad sem Psaltaren vm
hliodar/og kuñe þess betur hann ad
nema og j miñe ad hij
hallda.

# I Psalmur

## Jnnehalldeð.

J Þessum Psalme/kienner Dauid øllum/ad þe lifie epter Guds Bodordum/enn ecke epter Manna anda Fundingium. Þeir ed þad giøra/verda sæler og Sæluholpner/Enn hiner þara jlla. Þesse Psal mur er samhliooda vid þann 4. 111. 117. 128 Psalm Dauids.



Sæll er sa Madur/ huør ed ei geingr j Raade Omilldra/Og stadnæmest ecke a Veige Syndugra/Og hann sem ei situr a Stole Hædungar Manna.

Helldur hepur siina Lyfting/j Løgmæli DROTTins/ Og talar vm hans Løg mæl Daga z Nætur.

Hann er lijka sem þad Vidartrie/huørt ad Rootsett er j hia Rennande Vatne/ huørt ed ber sinn Auørt a siinum tijma/Og hans Laufblød munu ecke visna/ og allt huad hann giører/þ mun luckast vel.

Enn þaner eru ei hiner Oguðhræddu/ Helldur lijka so sem Molldardupt / huør iu ad Vindurenn burt feyker.

 Þar

Þar ꝥ þa ei þeir Ogudlegu vidrised j Domenum/ Ecke helldur hiner Syndugu j Samkundu Riettlætra.

Þuiad DROTTinn þecker Veigenn Rjettlætra/ Enn Vegur Ogudhræddra mun fyrerfarast.

# II Psalmur

Nyerherrar og ijler Menn setia sig vpp a mote Gude/ og Orde Jesu Christi/ þar yfer mun hann skielfa alla þa/ Huør hann er byggen ꝛ vgs/ sa hey re hans Ord/ vppa þad/ hann verde ecke bortapadz Þesse Psalmur samhliodar vid þan 10. 55. 82. 110. psalm.

Huar fyrer æda so Heidnar Þiodet/ Og Folked huxar so fæfeingelega Hlute?

Kongarner Landsins taka sig vpp/ ꝛ Hofdingiarner bera sijn Rad saman / mote DROTTne/ og j mote hans Smurda.

Lætum oss þeirra Bond j sundur slijta/ ꝛ j burtu fleyta fra oss þeirra Reypum.

Enn hann sem a Himnum byr/ hann spottar þa/ Og DROTTinn hæder ad þeim/ Hann mun þa tala til þeirra j sinne Reide/ ꝛ j sinne Grimd mun hann skielfa þa.

Enn

Eñ eg hefi sett miñ Konung yfer mitt Heilaga Fiall Zion.

Eg vil af þeirre Vissu Predika/ ᷣ ad DROTTiñ hefur talad til mijn/ Þu ert miñ Sonur/ j Dag fædda eg þig.

Heimtu ad mier/ og mun eg giefa þier Heidnar þioder j þijna Arfleifd/ Og Jardareñar ysta Enda þier til Eignar

Þu skallt j sundur sla þa med Jarnspyru / z lijka sem añad Leirker/ þa skalltu j sundur briota þa.

Lated ydur nu vnderuijsa þier Konungar/ z leidrietta ydur / þier sem erud Domendur a Jordunne.

Þioned DROTTne med Otta / Og glediied ydur med hrædslu.

Mynneſt vid Soneñ / so ad hañ verde ydur ecke reidur / og þier fyrerfareſt so a Veigenum.

Þuiad hans Reide mun snarlega vpp tendraſt/ Eñ sæler eru þeir aller sem a hñ treysta.

## III Psalmur

Hier seiger z Dauid ad Verralldarmeñerner setie sig

ke sig vpp j mote Gude z hans Pienurum/ z vill
du giarnan koma þeim j Fordiarp. Eñ Gud mū
hialpa þeim øllum.

## Psalmur Dauids/ þa hañ vard þarflotta fyrer Syne sÿnum Absalom.

DROTTiñ/ Huørnen eru mÿner Oviner so fiolgader / Og þeir so marger sem so vpprÿsa a mote mier?

Marger seigia miñe Sælu/ Nun hefr øngrar Hialpar von hia Gude/ Sela.

Eñ þu DROTTiñ ert miñ Hlÿfdar skiolldur/ z sa sem mig til Heidurs setur/ z hañ sa ed mitt Hofud vpphefur.

Eg kalla med miñe Raust til DROttins / Og hann Bænheyrer mig af sÿnu heiløgu Fialle/ Sela.

Eg ligg z sef/ z vakna aptur / Þuiad DROTTiñ hañ stidur mig.

Eg ottunst þui ecke mørg Hūdrad Þus und Mañа / þeirra sem vmkringia mig.

Rÿs vpp DROTTiñ / z hialpa mier miñ Gud/ Þuiad þu slær høgg vid Vang a/ alla mÿna Motstødumenn / z j sundur brytur Teñur Ogudligra.

Drott

DROTTinn/hia þier er Hialpen/Og
þijn Blessun pa er yfer þijnu Folke.

# IIII Psalmur.

Dauid kiener øllum ad ákalla Gud j þeirra sorg og Motlæte/og ad hyra vm þa Eilijfu Glede na sem hann vill giefa þeim aptur j staden/ huar fyrer þeir lyde þolenmodlega/ Enn vonder Menn setia Von sijna vppa Gotz z peninga.

Psalmur Dauids/fyrer ad syngia vppa
Streingialeika Hliodfære.

BÆnheyr þu mig/þa eg kalla a þig
Gud mitt Riettlæte/Sa ed mier hu
ggun veiter j Narmkuælingunie/
myskunn þu mier/z heyr mijna Bæn.

Þier Herrar / Huørsu leinge skal mijn
Dyrd løstud verda? Huar fyrer elske þier
Hiegoman z Ligarnar so giarnan/Sela.

Bidurkiened þo ad DROTTinn bre
ytér vndarlega vid sijna Heilaga/ DRO
ttinn Bænheyrer mig þa eg ákalla hann.

Ef þier reidest/þa syndgest ecke/taled
vid ydᵛ Hiørtu j ydᵛ hujlurvmm/z þijded.

Fornfæred Offur Riettlætesins/z voned
a DROTTinn.

Marger seigia/Huornen skal þesse oss syna
na hid goda? En þu DRottinn vpphef

þu yfer oss Lios þijns Andlits.
Þu giefur Glede mijnu Hiarta/þo ꝥ hin' adrer hafe nægd bæde af Vijne & Korne.
Eg ligg & sef mz ollu j fride/Þuiad þu DROTTINN allernasta hialpar mier/ꝥ eg oskalaus byggie.

## V. Psalmur

David giører hier eina Bæn/mz huørre ad sier huør eirn ma bidia til Guds/ad hañ meige halldast vid Sañleikañ/& bivaradur verda fra raungũ Lærdome/Psalmur þesse er samhlioda þeim 11. 12. 13. 17. 28. 35. 36. 140. 144 Psalme.

Dauids Psalmur fyrer ad syngia yfer Arfenum.

HEyr þu DROTTINN mijn Ord & hugleid mitt ákall.
Hygg ad Kueinstafan miñar Bænar/miñ Konungur/& minn Gud/Þuiad til þijn vil eg bidia.
DROTTIñ/árla þa heyr þu mijna Raust/Árla vil eg fyrer þier standa/og merkia þad.
Þuiad þu ert ecke sa Gud/þeim ed Ogudlegt Athæfe lijkar/Huør sem er jllur hañ verdur ecke hia þier.
Hiner Ranglatu standast ecke fyrer

þiñe Augsiyn/þu hefur ad hatre alla Ill giørdameñ.

Þu lætur þa Lygemælendur alla fyrer farast/DROtteñ hefur z stygd vid þeim s Falsfuller z Bloodgiarner eru.

Eñ eg vil j Trauste þiñar mykla Myskunar jñganga j þitt Hws/Og tilbidia þ þijnu heilogu Mustere j þijnū Otta.

Leid þu mig DROttiñ j þijnu Riettlæte/fyrer miña Ovina saker/Gior þu þiñ Veg greidan fyrer mier.

Þuiad j þrra Muñe er ecke sañlegt/þeirra hid jñra er Hiartans Angur/Þeirra Barke er ein vpñdopen Grøf/Med sijnum Tungū handtiera þeir suiksamlega.

Lat þu Gud Dom a þa ganga / so þr falle j fra sijnum Asetninge/Rek þa wt þ þeirra mijkella Misgiorda saker / þt þr eru þier þuerbrotner.

Lat þa alla glediast meiga sem treysta vppa þig/eilijflega lat þu þa fagna/þt þu verndar þa / Og lat þa glada vera j þier sem þitt Nafn elska.

Þuiad þu DROttiñ blessar þa hina Riettlætu / þu Koronar þa med Godfyse/so

 sem

ſem med Skillde einum.

# VI Pſalmur.

Dauid giører þeſſa Bæn til Guds/ og meiga eins aller Chriſtner bidia med angrudu Hiarta/ þa þeir haфa ſyndgad/ Pſalmur þeſſe er ſamhlio da vid þañ 38. 51. 130. 143. Pſalm

Pſalm: Dauids fyrer ad ſyngia vppa atta Streingia Hliodfære.

DROttiñ ſtraffa mig ecke j þiñe Bræde/ Og typta mig ecke j þi ñe Grimdar Reide.

Myſkuna þu mier DRottiñ/ þuiad eg em veykur/ Lækna þu mig DR Ottiñ/ af þui ad miñ Bein eru ſkielfd.

Og miñ Saala er z næſta miog hrelld/ O þu DROTTiñ/ Huerſu leinge?

Snu þu apt: Drottiñ z hialpa miñe ſaa lu/ Frelſa þu mig þ͛ þiñar Myſkū̃ ſaker.

Þuiad j Daudanum er ſa ei neirn ad þiñ miñeſt/ Huor er ſa j Heluite/ ad þier ſeige Þacker?

Eg er mæddur j miñe Anduarpan/ eg þuæ vm allar Nætur miña Sæng/ z j mi num Tarum þa væte eg mitt Legurum.

Miñ Augſyn er dopur af Hrygd/ z te kur ad elldaſt/ þt eg kuelſt a alla Vegu.

Bijked j burt þra mier aller Illgiorda
meñ/Þui Drotteñ heþr heyrt miñ grꝍt.
DROTTiñ hañ heyrer mijna Beid
ne / DRottin hañ medtekur mijna Bꝍn.
Aller mijner Ovíner mũu sijn skamast/
z miog skielfder verda/ vm Hꝍl snuast/z
til Skamar verda miog snarlega.

# VII Psalmur

Dauid kiener hier/huørnen sierhuør eirn skal ha
ga sier/þa hann skiedur oriett/og ad Meñ giefe
sig vnder Guds Vilia og Dom/og bidie þyrer þe
im sm̃ slijkt giora/þad þeir mꝍttu snuast til Gu
ds/þesse Psalmur er samhlioda þeim 9. 18. 21.
55. Psalme.

Saklleyse Dauids sm̃ hñ saung þyrer
DROTTne vegna Orda Chusi
Sonar Jemini.

Ypa þig DROTTiñ Gud trey
ste eg/ Hialpa þu mier j fra øllum
mijnum Offsoknurũ/ z frelsa mig.
So ad þeir grijpe ecke sem Leon mijna
Sꝍlu/z hana j sundur slijte/fyrst ad þar
er eingen sa sem (hana) þrelsar.
DRottiñ miñ Gud/eþ ad eg hefe þta
giort/ z eþ Ranginde eru j mijnũ Hondũ
Ef eg heþe þeim jllt endurgollded sem
 mig

mig lietu j Fride/ Edur hafe eg skada gi
ort þeim / sm̃ mīner Ovuner voru fyrer
ongua sok.
Þa ofsæke miñ Ovinur Sælu mīna/
z Handtake hana/ z fottrode mitt Lijf ni
dur til Jardar/ z leggie mīna Æru j Mo
ldardupt. Sela.
Statt vpp DROTTIñ j þiñe Reide/
vpp hef þig yfer Grimd Ovina miña/ og
hialpa mier aptur j þad Embætte / sem
þu hefur bifalad mier.
So þad Lyduren safnest til þīn aptr/
Og vegna þess hins sama þa kom vpp
aptur.
DROTTIñ hañ er Domare yfer Fo
lkenu/ Dæm þu mig DROTTIñ epter
miñe Riettuīse/ z epter mīnu Sakleyse.
Lattu Hreckuïse þeirra hiña Ogudlegu
fa enda/ z gior greitt fyr͛ hinum Rietlæ
ta/ Þuiad þu riettferdugur Gud ransakar
Hiortun z Nyrun.
Mitt Fullting er af Gude/ sa er hialp
ar Riettferdugum af Hiarta.
Gud hñ er eirn Riettlatur Domare/
Og

Og einn Gud/ sa huor ed daglega hotar.
Nema Men vilie leidriettast/ þa hefr
han huatt sitt Suerd/ Sin Boga hefur
han vpp spanad z hn tilbwed.
Og a honum hefur han tilbwed Dau
dans Skeyte/ Sinar Oruar hefur han
tilreidt til fordiorfunar.
Sia þu/ Nan hefur jllt j Sine/ han ge
ingur med Ogiæfuna/ Og han mun fæda
Lygena.
Grofena hefur han grafed/ og opnad
hana/ Og j þa Grof fiell han sialfur sm
han giorde.
Hans Olucka mun honum j Koll koma
Og hans Rangleate sialfs/ mun ofan fa
lla yfer hans Huirfel.
Þacker giore eg DROTTne/ vegna
sins Riettlætis/ Og Nafne DROttins
hins Hæsta vil eg Lof syngia.

# VIII Psalmur.

Dauid talar hier vm þa Virding/ sem Gud gi
rde Manskiepnune/ þa han gaf henne valld yfer ol
lum Hlutum a Jordune/ sem han hafdi skapad he
ne til gagns z Nytsemda. Psalmur þesse er sam
hlioda

Psalmur Dauids fyrer ad syngia
vppa Githith

DROTTinn/vor Drottnare/huo
rsu dasamlegt ad er þitt Nafn
j øllum Londū/So ad þijn Lof
giørd er j Himnenum.

Vt af Muñe Smabarnaña z Briost
mylkingaña/hefur þu eirn Styrkleika til
bwed/fyrer þiña Ovina saker / so ad þu
afmæder Ovineñ/z þañ hiñ Hefndargi
arna.

Þuiad eg mun sia Himnana / Verked
þiña Fingra / Tungled og Stiørnurnar
huoriar ed þu hefur tilbwed.

Huad er Madureñ þess/ad þu skuler mi
ñast hans? Edur Mañsins Sonur þad
þu vitier hans?

Vm lijteñ Tijma muntu lata hñ af Gu
de yfergiefen vera/Eñ med Æru z Veg
semd muntu hñ Korona.

Þu munt setia hñ eirn Herra yfer ver
keñ þiña Handa / Alla Hlute þa hefur
þu honum vnder Fætur lagt.

Saude og Naut allt til samans/Þar mz
eirnen

eirnẽ Skogardyrẽ/ Fugla Loptsins ꝛ Fisſka ſiaꝥarins/ꝛ allt huad j Hafeu geingꝛ.
DROTTIN vor Drottnare/ Huer ſu daſamlegt er þitt Nafn j ollū Londū.

# IX Pſalmur

Dauid talar hier vm þad/ad Gud proue(edur reyne) ſyna Þienara med myklum Motgange/og hialpe þeim þar fra/ ſo þeir ſkule pryſa hañ æfenlega. Pſalmurẽ er ſamhlioda þeim 44.60. 66. 140 Pſalme.

Pſalmur Dauids/vtaꝥ þeirre þogru Vngdoms Æſku/ꝥ ad ſyngia.

MEG þacka þier DROttin vt af ollu mijnu Hiarta/Og allar þijnar Daſemder vil eg framtelia.

Eg ꝥagna ꝛ em gladur j þier / Og ſyng Lof þijnu Nafne þu hiñ allra Hæſte.

Þad þu ſnerer mijnum Ovinum a Hæl aptur/So þeir eru fallner/ꝛ fyrerfooruſt ꝥyrer þiñe Augſyn.

Þuiad þu giorder mier rieꝛt og mijnu Mꝛlefne/Þu ſitur a Domſtolenum eirn riettuꝛs Domare.

Þu ſtraffar Heidingiana/ꝛ fyrerkiem ur þeim Ogudlegu/Þeirra Nofn apſkief

ur þu

ur þu vm alldur og ad eilijfu.

Suerdin̄ Ovinarens vrdu ad ſijdſta ad ønguu/ Og Borgernar brauſtu nid/ Þeir ra miñing hefur pyrerþareſt med þeim.

Eñ DROTTEN blijfur eilijflega/ Nañ hefur ſitt Tignar ſæte tilbwed til Domſins.

Og hñ mun Heimskringluna riettelega Dæma/ Og Folkenu medur Riettuijſe ſti orna.

Og DROttiñ er Athuarf hins Fatæ ka/ Eitt Athuarf þa a liggz j Neydeñe.

Þar fyrer treyſta þeir a þig ſem þitt Nafn þeckia/ Þui ad þu yþergiefur ecke Drottiñ/ þa ſem þijn leita.

Synged Lof DROTTNne/ þeim ed til Zion bygger/ Kunngiøred medal Folkſins hans Verk.

Þuiad miñeſt hañ/ z hñ ſpyr epter þeir ra Blode/ Nañ forgleymer ecke kalle þra hiña Falæku.

Myſkuna þu mier DROTtiñ/ lijt þu a Eymd mijna medal Ovina miña / Þu ſa ed mig vpphefur vt af Daudans dyrū.

Vppa

Vppa þ eg framtelie allar minar Lof sogur/ j Borgarhliðũ Dotturennar Zion/ So þ eg gladt sie/ yfer þinu Hialpræde.

Hiner Heidnu eru nidur socktet j Graf ernar/ þær ed þr hofdu tilbwed/ þeirra fo tur er j þeirre Snorunne fastur/ sem sialfer þeir vppegndu.

Þañen þeckest þad/ ad DROttinn lætr riett skie/ Ad hinn Ogudhrædde er fiotradr j Verkum sinna Handa / fyrer Orded Sela.

Snuest hiner Omilldu til Heluijtis/ All er þeir Heidingiar sem Gude þorgleyma.

Þuiad ei mun hañ med ollu þorgleyma hinum Fatæka/ og Vonenn hins Volada mun ecki glatast æþenlega.

Statt vpp DRottinn / so þad Madur enn verde ecke yferstercfare/ Lat þu alla He idingia dæmast fyrer þinne Augsyn.

Set þu yfer þa DROTTinn eirn Mei stara/ So þad hiner Heidnu medkienne þ/ ad þeir eru Menn/ Sela.

## X Psalmur.

Vm

vm Magt Antachrists sins sem hañ hefur j Verılldeñe/z vm Hefnd þa/sem Gud mun læta yfer hañ koma/z frelsa syna Pienara vndan hans valldc. Psalmyreñ er samhlioda þeim 11. 35. 36. 74. Psalme.

HVar fyrer ert þu DROTTin so fiarlægur? Og geymer þig a Neyrmungar tijmanum?

A medan hiñ Ogudlege veit er Yfergang / þa hlytur hiñ Fatæcke ad lijda/Þeir hallda til samans/z vpphugsa huad vondslegt er.

Þuiad hiñ Ogudlege hroosar sier j sinne Motþroan / Og hiñ Agiarne blessar sig og lastar DROTTin.

Hiñ Ogudlege er so ofurdædugur z reidur/ad hañ hirder vmønguañ/ J øllu sijnu Athæfe virder hañ Gud einskis.

Sitt Jdiu helldur hñ samt fram/ Þijner Domar eru hønum miog fiarlæger/ Hañ brepter drambsamlega vid alla sijna Ovine.

Hañ seiger j sijnu Hiarta/ Alldrei verd eg yferbugadur/ vm Alldr z ad eilijfu mū þad hiedan j fra hæskalaust vera.

Hans Muñur er fullur Bøluanar/Fa

lskleika

lysleika z Suikrædis/ vnder hn̄s Tungu rootum er Nrygd z Eruide.

Hn̄ vmsitur j Gørdunum/ ad drepa þan̄ Saklausa leynelega / hans Augu stara a þan̄ Fatæka.

Han̄ vmsitur j leyne/ so sem Leon j Bæ le sijnu/ Han̄ vmsitur ad grijpa hin̄ Fatæ ka ad hn̄ kæe veidt han̄/þa ed han̄ teyer hn̄ j sijna Snøru.

Han̄ melur j sundur/ nidur þrycker/ z fe ller hin̄ volada med Ofrijke.

Han̄ seiger j sijnu Hiarta/ Gud hefur forgleymt þui/ Han̄ hefur sijnu Andlite þar fra snued/ so ad alldre mūe hn̄ þ sia.

Rijs vpp DROTTIn̄ Gud / vpphef þijna Hond/ Forgleym ecke þeim Fatæku

Huar þ̄ skal hin̄ Ogudlege lasta Gud/ z seigia j sijnu Hiarta/ Eige skeyter han̄ þui?

Þad sama sier þu vel/ þuiad þu lytur þa Eymd z Armæde/ vnder þijnum Hondum er þad komed / hiner Fatæku bifala þad þier/ Þu ert Hialparen̄ Fodurlausra.

J sundur briot þu Armlegg hins Ogud

lega/z leita ad hans Illsku/ So ad hss Ogudlegt Athæpe/verde ei meir funded.

DROTTin mun rijkia vm Alldur z ad eilijfu / Hiner Heidnu munu fyrerfar ast/ vt af hans Lande.

Girnd peirra Fatækra heyrer pu DROTTinn/ Peirra Hiarta veit vissulega ad pitt Eyra hyggur par ad.

So ad pu dæmer Riett hinum Foðurla usa og Fatæka/ad eige hallde sa Madur meir afram/ad stæra sig a Jordune.

## XI Psalmur

Dauid talar hier vm jllra Manna Falskleika z Suik/sem peir hafa j frame j moote Guds Pienur um. Og vm pann punga Dom/sem mun koma yfer pa/Hann samhliodar peim.10. 19. 68. 140. Psalme.

### Psalmur Dauids ad syng ia fyrer.

EG treyste a DROTTinn/ huer nen seige pier pa mine Salu/ ad hun skule fliuga sem Skogarfugl vppa ydar Fioll?

Puiad sia pu/ hiner Ogudlegu spanna sinn Boga/ z leggia sijnar Oruar a Streng/

ing/ad þeir heimuglega skiote hina Riett ferdugu þar med.

Þuiad Grunduøllen brutu þeir nidur ad Grune/ Huoriu skal sa Riettlæte til veg ar koma?

DROTTin er j sijnu heilsgu Muste re/a Himnum er DROttins Tignar sæ te/Hans Augu sia þar vppa/hans Auga huarmar reyna Manna Sonu.

DROTTin hann reyner hinn Riettlæ ta / Hans Sæla ad Hatre hepur hinn O gudlega/og þa sem Illskuverkin giarnan fremia.

Hann mun rigna læta yfer hina Ogudle gu Elldflugum / Elldi og Brennesteine/ Og stormvidred mun hinn þeim ad verdla unum giefa.

DROTTen er Riettlætur/ og elskar Riettlæted/Þar fyrer ad þeirra Andlit li tur a þad huad Rieitferdugt er.

# XII Psalmur

Dauid bad til Guds a mote Fylskum Lærdo me/So ma og eirneigenn nu huør bidia/ad Gud vi lie biuara sig fra þønum. Psalmur þesse er sam

Psalmur Dauids / fyrer ad syngia vppa atta Streingia Hliodfære.

HJalpa þu DROTTEN/ þuiad hina Heilogu tekur ad fæcka/ Og hiner Riettferdugu eru miøg fæer orðner medal Manna Sona.

Huør og eirn talar vid annan fafeingelega Hlute med Smiadran/ Og læra vt af Tuidrægu Hiarta.

DROTTinn fyrerfare øllum Smiadrunar Vørum/og þeirra Tungum s̄ stor Ord tala.

Þeir ed þad seigia/ Vor Tunga skal yfferrædenn hafa/ Oss ber ad tala/ Huør er vor Yfferherra?

Fyrer Eymdar saker Voladra/og Andvarpanar saker Fatækra vil eg vpp rijsa/ seiger DROTTin/ Eg vil eitt Hialpræde veita/ so Menn skulu alldiarflega læra.

Mæled DROTTEns er eitt hreint Mæal / so sem klarad Silfur j Deigul med sió sinnum hreinsad.

Þu DROTTiñ vardueit þa/Og va rdueit oss þra þessare Kynslood eilijflega.
Allstadar er þar fiolde Ogudlegra/ Nuar ed slijker fæneyter Drottna a medal Folksins.

# XIII Psalm.

Dauid bad Gud vm Raad og xXaad mote Dioƒl enum/ Eins ma og eirnen sierhuør eirn bidia aƒ Hiarta/Psalmur þesse er samhlioda þiñ 16, 25, 31, 116, 130. 144 Psalme.

### Psalmur Dauids þyrer ad syngia.

HVorsu leinge villtu DROTTiñ þorgleyma mier þañen med ollu? Huørsu leinge þa hylur þu þitt Andlite fyrer mier?

Huørsu leinge þa skal eg þañen Kual rædur vera j miñe Sælu? Og angra mig so j mijnu Hiarta daglegana? Huørsu leinge skal miñ Ovinur forhefia sig vpp yfer mig?

Sia þu þar til/ z Bænheyr mig DROTTin miñ Gud/Vpplys þu mijn Augu/

so ad eg sofne ecke j Daudanum.

So þad mitt Ovinur hælest ecke vm þ ad hañ sie mier mættugre ordeñ/ Og hin er sem mig motstanda / meige sig ecke af þui gledia/ ad eg ligge fallen.

Eñ eg treyste þar vppa/ ad þu so Myst unsamur ert/ Mitt Hiarta þad gledur sig j þijnu Hialpræde.

Eg vil syngia DROTTne Lof/ Þui ad hañ giører so vel til mijn.

# XIIII Psalm.

Iller Menn sem giöra ødrum skada / z hata Guds Folk/ z forsmaa hans Bod/ Þeir munu þar ottast sem eingen Otte er a ferdum/ og Guds Ovinustu meñ munu þrelsader verda a Deige Doms sins. Psalmur þesse er Samhlioda þeim 53. 58. 36: Psalme.

## Psalmur Dauids fyrer ad syngia.

Hiner Fauvisu seigia j sijnum Hiortum/ Eingeñ er Gud/ Þeir duga eckert/ og eru suiuirdeleger j sijne Breitne/ Þar er ecke eirn sa ed gott giører.

DROTTiñ hañ leit af Himne ofan yfer Mañanna Sonu/ So ad hañ sæe/ hu

vrt nockur munde ſa ed ſkilſande være/og epter Gude leitade.

Eñ aller þeir voru fraſuuner/ og aller ſaman huor mz odrum onyter ordner/ Þar var eingeñ ſa ed nockud gott giorer/ z ecke eirn.

Huort vill eingeñ af þeim Jllgiordamo ñum merkia þad? Þeir ed mitt Folk vpp ſuelgia/ ad þeir ale ſialfa ſig/ Eñ DROTTiñ akalla þeir ecke.

Þar vgga þeir vm ſig/ Eñ DROTT iñ er hia Kynſlood Riettlætra.

Þier forſmæed Rædiñ hins Volada/ Eñ Gud er hans Trunadar trauſt.

Eg villde þad Hialpræded vt af Zion kiæme yfer Jſrael / z þad DROTTin frelſade ſitt Hertekna Folk/ Þa munde Jacob fagna/ z Jſrael vera Gladur.

# XV Pſalmur

Vm þa ſønnu Natturutegund Riettlæteſins/ z þeſſ Auoxſt/ z ad þeir Riettuiſſu mūu þar eiloꝑ good Laun j Himnarÿke. Pſalmureñ ſamhlioder vid Þann 21. 26. 101. Pſalm.

DROTTinn/ huor þar ad bwa j þinne Tialldbwd? Edur huor mun hwijlast vppa þijnu Heilogu Fialle?

Hann sa ed frammgeingur flecklaus/ og giorer Riett / Og talar Sannleikann vt af Hiarta.

Huor ed ecke suiksamlega mæler mz sinne Tungu/ z Naunga sijnum eckert Illt giorer/ Og leggur ecke sijnum Naunga neitt lastlegt til.

Huor hann leider hia sier hinn Illgiarna enn j heidre hefur hinn Gudhrædda/ Huor hann suer sijnum Naunga z suijkur hann ecke.

Huor hann giefur ecke Fie wt vppa Ok ur / Og tekur ecke Mwtu yfer þann hinn Saklausa/ Huor ed þetta giorer/ sa mun stodugur blijfa æfenlega.

# XVI Psalmur

Sa Riettlæte þorlætur sig vppa Gud j sijnum Motgange/ þui hann veit ad hann elskar hann þa og giefur vel biuarad hann fyrer øllu vondu/ og

giort

giørt hann holpen. Psalmurenn er samhlioda þui 17. 26. 27. 68. 101 Psalmi.

## Eitt Gyllene Klenodium Dauids.

Vardveit mig Gud/ Þui ad eg trey ste vppa þig

Eg sagde til DROTTins/ Þu ert DROTTinn/ eg hlyt ad lijda fyrer þijnar saker.

Fyrer þa Heilogu sem a Jardrijke eru/ og fyrer þa dyrdlegu/ A þeim hef eg alla mijna þocknan.

Enn þeir hiner adrer sem epter hinū odrum stunda / munu mijked Hiartans Angur lijda/ Eg vil ecke færa þrra Dryckiar Forner med Blodenu/ecke helldur taka þeirra Nafn mier j Munn.

DROTTinn er mijn Arfleifd / z mitt Hlutskipte/ Þu ert sa sem mier vardueiter mijna Hlutdeilld.

Hlutur fiell mier j Lystelegum stad/ Og hin besta Arfleiþden hlotnadest mier.

Eg lofa þann DROTTinn sem mier gaf Rꝏd/ Lijka typta mig eirnen mijn Nyru a Nætur

Alla tijma hefe eg DROTTin mier fyrer Augum/ Þui hañ er mier til Hægre Handar/ Þar fyrer mũ eg stodugz blijfa.

Þar fyrer gledz sig mitt Hiarta/ z mijn Dyrd er Gladuær/ so mun og eirnen mitt Holld j Vonenne Huijlast.

Þuiad ei muntu mijna Ønd yfergiefa j Heluijte/ Og ei læta þinn Heilaga rotn an sia.

Þu giorder mier kuñan Veigen til Lijfs ins/ Fyrer þinne Augsyn er gnott Fagnadarens/ z gledelegt Lijf til þinnar Hægre Handar eilijflegana.

## XVII Psa.

Ein Bæn sem sierhuor eirn mæ lesa/ þad hann kuñe ad vera stødugur j Sannleikanum/ z ad biua vast vra bolkum Lærdome/ og rangre Tru/ oz þ ad Gud vilie launa þeim vel/ sem saklauser Motgangen lyda. Psalmur þesse kiemur saman vid þā 5. 12. 14. 15. 28. 141. 142 Psalm.

### Ein Bæn Dauids.

Heyr þu DROTTin Riettuijsena/ merk mitt Akall/ Hygg ad minne Bæn/ huor ad ei skier af suik

ſuikſamlegum Vørum.

Hlutaſtu til mijns Mælefnis/Og gief giætur ad Riettindunum.

Þu reyner mitt Hiarta / z vitiat þeſſ a Nattarþele/z hreinſar mig/z finur eckert med mier / Eg einſetta mier/ ad minn Munur ſkyllde ecke ſkeika.

Eg varducite mig j Ordenu þiña Vara/Fyrer Mañaña Verkum / a Veigen um Spilluirkians.

Halltu miñe gongu j þijnum Vegum/ So ad mijn Fotſpor ſkridne ecke.

Eg kalla a þig/ ad þu Gud Bænheyrer mig/Hneyg þijn Eyru til mijn/z heyr mijn Ord.

Audſyn þiña daſamlega Godgirne/þu Hialpare þeirra ſem a þig treyſta/J gegn þeim/ſem ſetia ſig vpp j mote þiñe Hægre Hende.

Varducit þu mig ſo ſem Siaalldred Augans/ Vnder Skugga Vængia þiña vernda þu mig.

Fyrer þeim Ogudlegu ſem kuelia mig/ fyrer mijnum Ovinum ſem vmſitia mijna Sælu. Þeirra

Þeirra Feikingiar hallda til samans/ Med sijnum Muñe tala þeir drambsamlega.

Huar ed vier gongum þa vmkringia þeir oss/ Sijn Augu setia þeir þangad/ þ þeir slæe oss til Jardar.

So sem añad Leon/ þad bwed er til Brædena ad veida/ Lijka sem Leons Huelpr sæ ed situr j Fylsnum.

Tak þig vpp DROTTiñ / yfirfall þa/ og nidurlæg þa/ Frelsa þu med Suerde þijnu Sælu mijna fra þeim Ogudlegu

Fra Folke þiñar Handar/ DROTTiñ fra Moñum þessarar Veralldar/ þeir ed sitt Hlutskipte hafa j þeirra Lijfe/ huørra Kuid ed þu fyller med þijnum Aude/ Þeir ed hafa mikeñ fiolda Barna/ z læta sijnar epterleyfar epter hia þeirra Nidium.

Eñ eg mun sia þitt Auglite/ j Riettlæte/ Eg mun saddur verda/ nær eg vakna epter þiñe Mynd.

# XVIII Psalmur

Þennan psalm saung David / þa Gud hafde frelsad hann af Hende allra hans Ovina/ og af Hende

Hende Kongs Sauls/Og talar hann hier vm Christi Pijnu/Dauda og vpprisu. Psalmur þesse er samhlioda þeim 21. 59. 61. 123. Psalme.

Eirn Psalmur Dauids/ DROTTins Þionustumans/til ad syngia fyrer/Nuær ed talade þyrer DROTTine/Ordeñ þessa Loþkuædis/J þañ tijma/þa ed DROTTin hafde frelsad hañ af Hondum all ra siña Ovina/ z af Hende Sauls / og sagde.

HJartkiæran hefe eg þig DROTTiñ/miñ Styrkleike/DROTTiñ mitt Hlifdarbiarg/mitt ørugt Vÿge/miñ Frelsare/miñ Gud/mitt Traust a huørt eg treyste.

Mijn Verndarhlijfd/z Horn mijns Hialpræd is/z mitt Athuarf.

Eg vil lofa DROTTiñ/og akalla hañ/Þa mun eg frelsadur verda j fra mijnum Ovinum.

Þuiad mig hafa vmkringt Bøndeñ Daudans/ Og Beltals Becker hafa skielft mig.

Bøndeñ Heluijtis hafa vmkringt mig/ Og Daudans Snørur yferbugudu mig.

Vær

Nær eg kalla eg DROTTin/ z hroopa til Guds mijns/ Þa Bæn heyrer hañ mijna Raust af sijnu Musteri/ z mitt ækall kiemur fyrer hans Augsyn/ honum til Eyrna.

Iorden Titrade z hriftist oll/ Og Grundvellerner Fiallañä skulpu z hrærdu sig/ þa ed hñ reiddest.

Reykur Gaus vpp af hans Nøsum/ z Elldur brañ af hans Muñe / so ad þar [illegible] Neistar vt af.

Hañ beygde Himnana/ z stie ofan/ Og myrkua Þoka var vnder hans Footum.

Og hñ foor vpp yfer Cherubim / z flaug/ Hñ sueimade a Vindsins Vængium.

Hans Talld j kringum hñ var Myrkred/ z dyñ Þokusky/ þar var hañ jñe hulen.

Vt af þeim Geislum fyrer hans Augsyn/ tuistrudust Skyeñ/ mz Hagle z Elldslugum.

Og DROTTiñ hañ liet Reidarþrum ur skia af Himne/ Og sa hiñ hæste gaf vt sitt Hliod med Hagle z Elldgange.

Hann

Hañ skaut sijnum Geislum vt/og j sund ur dreyfde þeim / Hañ liet verda myklar Elldingar/ z hrædde þa.

Þa sauſt vppspretttuppter Vatnañа. z Grundueller Jardarenar auglysku sig/ DROTTIñ/ af þiñe straffan/ vt af blæ stre Andans þiña Nasa.

Hñ sende vt af Hædeñe/ z medtok mig/ Og tok mig burtu vr myklum Votnum.

Hañ frelsade mig fra sterkustũ Ovinũ mijnum/ Og j burt fra þeim ed mig Hotu du/ huorier mier voru megtugre.

Þeir ed mier æsokn veittu a mijnũ Hor mungar Deige/ Og DROTTiñ var mitt Huggunar trauſt.

Og hañ leidde mig vt a vijdan Voll/ Hañ leidde mig burt þadan/ þui hañ ha fde godan Vilia til mijn.

DROTTiñ hañ endurgielldur mier/ epter mijnu riettferdugu Mælefne/ Hñ vmbunar mier epter Hreinferdugleika mi ña Handa.

Þuiad eg vardueite Vegu DROTTins/ Og breyte ecke Illmannlega a mote mijnum

mı̃num Gude.

Þuiad olla hans Doma hefe eg mier fyrer Sionum/Og hans Bodordum fley gi eg ecke burt fra mier.

Helldur em eg Flecklaus fyrer honum/ Og bijuara mig fra Syndenē.

Þar fyrer endurgielldur mier DROT tin epter mı̃nu Riettlæte/ Og epter hrein ferdugleika minna Handa j hns Auglite.

Hia Heilogum ertu Heilagur/ z hia Fr omum ertu Fromur/ z hia Hreinferdugū ertu Hreinferdugur/ z hia Rangsnunum ertu Rangsnueñ.

Þuiad þu munt frelsa þad fatæda Fo lk/Og nidur lægia Drambsom Augu.

Þuiad þu vppbyrter mitt Lios/DROtt in Gud miñ hañ giorer mitt Myrkur ad Byrtu.

Þuiad fyr' þig fæ eg Stridsfolked vid Beste lagt/Og fyrer mıñ Gud/yfer St einveggeñ stoked.

Guds Veiger eru fyrer vtan Lyte/Ord ædur DROTTins eru Gagnhreinar/ Hñ er eirn Hlijfdarskiolldur allra þeirra s a hñ treysta. Þui

Þuiad huer er Gud / vtan alleinasta DROTTIñ? Eda huor er sterkur vtan vor Gud?

Gud bryniar mig med Krapte/Og giorer mijna Vegu Flecklausa.

Hann giorer mijna Fætur ælijka sem Hiartarens/ Og setur mig vppa mijna Hæd.

Hañ kieñer mijnum Hondum ad beriast Og lætur mijna Armleggie Stalbogann ad spaña.

Og þu giefur mier Skiolldeñ þijns Hialpræðis/ ꝛ þijn Hægre Hond styrk' mig/ Og nær ed þu auk myker mig / þa myklar þu mig.

Þu veiter mier noglegt Gangrwm/suo þad mijner Ocklalider skridna ecke.

Eg vil sækia epter mijnum Ovinum/ ꝛ handtaka þa/Og ei aptur snua fyrr eñ þad eg hefe fyrerkomed þeim.

Eg mun þa nidur slaa / ꝛ þeir munu mier ecke vidstødu veita/ Þeir hliota vnder mijnar Fætur ad falla.

Þu kañt med Krapte ad Herklæda mig

E til

til Bardaga/Þu vnd' mig leggr alla þa sim setia sig vpp a mote mier.
Þu giefur mier þad innner Ovinet sin ua a Flootta/Og eg mynum Natursmoff uni j sundur dreyfe.
Þeir kalla/og þar er sa eingeñ ed þm hialpe/Til DROTTins/ enn hañ and suarar þeim ecke.
Eg vil melia þa sc sem Mosldardupt fyrer Vinde/ Eg vil vtskwþa þeim/ lijka sem Saurendum a Strætum.
Þu hialpar mier j fra þui þrætlunar sama Folke/ z giorer mig ad Høþde me dal Neidesta Þioda/ Þad Folk huort eg þeckta ecke/þad mun þiona mier.
Þad hlyder mier mz hlydugum Eyrū/ Ja þeir añarlegu Syner aþneita mier.
Niner añarlegu Syner/þeir hiadna ni dur/og fara fælmande j synum Bonkū.
DROTTiñ hañ lifer/ z blessadur sie Styrkur miñ/Og Gud myns Nialpradis sie Lofadur.
Sa Gud er mier giefur Hefndena/Og Folked vnder mig leggur.

Sa

Sa ed frelſar mig i fra Ovinum mīnū og forhefur mig j burt fra þeim ſē̄ ſettu ſig vpp a mote mier / Þu hialpar mier j fra þeim hinum Ranglætu.

Þar fyrer vil eg DROTTinſ þier þacker giøra medal Heidinna Þioda/Og Lof ſyngia þīnu Nafne.

Sa ed audſyner mīked Hialpræde ſīnū Konunge/ ꝛ Myſkun veiter ſīnum Smurda/ Dauid/og hans Afkuæme eilīflega.

## XIX Pſalmur

Hier talar Dauid vm þa ſtoru Magt ꝛ Dyrd Guds/og þad/ad hann meige vel þeckiaſt af øllū ſīnum ſkøpudum Skiepnum/Solūne/Tunglenu/ Himnenum/og Mānēſkiunē/ og af øllum Hlutū ſem hañ ſkapade/þad hañ ſie ſañur Gud. Hañ verdur og eirnen þecktur/vt af hans heilaga Orde/ Huar fyrer eirn ꝛ ſierhuør a ad bidia/ ad hñ mætte þad/ læra/ꝛ þar vid blyfa. Pſalmur þeſſe er ſamhliodande þeim/8.12.29.104. 148 Pſalme.

HImnarner vtſkyra Guds Dyrd/ Og Feſtingen Himnanna kungiorer Verk hans Handa.

Huor Daguren ſeiger þad od rū/Og huor Nottin kūngiorer þ a ſare.

Þar er eckert Tungumaal til edur þær Munnrædur/ huar ed þeirra Radder hey rast ecke.

Vm oll Lond er þeirra Hliomur vtgei ngeñ/ Og þeirra Maal allt til Heimsins Enda/ Soluñe hefur hañ Herberge sett j þeim somu.

Og hañ sialfur geingur vt þadan/ lijka sem eirn Brudgume vt af sijnu Brwdar hwse/ Og gledur sig sem ein Hetia/ til ad hlaupa Veigeñ.

A einum enda Heimsins kiemur hann vpp/ z reñur so vm kring til hins sama en da/ Og eckert skylest fyrer hans Hita.

Logmaled DROTTins er flecklaust Og endurnærer Saalena.

Vitnisburdureñ DROTTins er tru anlegur/ Og giefur Vijsdom Skilnings litlum.

Skipaner DROTTins eru riettferd ugar/ og gledia Hiartad/ Bodordeñ DR OTTins eru skiær/ z vppbyrta Augun.

Otte DROTTins er hreinferdugur z blijfur eilijflegana/ Domar DROTtins eru

eru ſañarleger/aller eru þr Riettferdug^r
Dyrmætare eru þeir helldur eñ Gull/ z mykler Gymſteinar / Þeir eru ſætare enn Hunang z Hunangs Seimur.
So verdur og eirneñ þinn Þion fyrer þa æminñtur/Og huør ed varduciter þa/ ſa hefur mikel Verdlaun.
Huør fær ſkyniad huørſu opt hañ mis giorer? Fyrergief þu mier DROTTiñ mıñnar heimuglegar Synder.
Varduceit eirnen þinn Þion j fra þeim Dramblætu/ſo ad þr Drottne ei yþ^r mı er/Þa mun eg flecklaus vera/og ſaklaus af mikelle Miſgiørd.
Lat þier þocknaſt Ordrædur mıñs Mu ns/Og Mæled mıñs Hiarta fyrer Aug lite þıñu.
DROTTiñ miñ Hialpare/Og miñ Endurlauſnare.

# XX Pſalmur

Ein Bæn fyrer Kongа z Høfdingia ad bidia til Guds. Pſalmur þeſſe er ſamhlíodande þeim næſta epterfylgiandа 21. pſalme.

Psalmur Dauids fyrer. ad syngia.

DROTTinn Bænheyre þig a Motzangs tijmanum / Og Nafne Guds Jacobs þad vernde þig.

Hann sende þier hialp af Helgedomenum / og styrke þig vt af Zion.

Mińugur sie hañ alls þijns Mataroffurs / Og þijn Breñeforn verde þeir noog Sela.

DROTTinn giefe þier þijna Hiartans villd / ꝛ vppfylle allan þiñ æsetning.

Vier gledium oss j þijnu Hialpræde / og j Nafne Guds vors / setium vier vpp Sigurmerked / DROTTinn vppfylle allar þijnar Bæner.

Nu formerke eg / ad DROTTinn frelsar siñ hiñ Smurda / ꝛ bæñheyr' hñ vt af sijnum heilogũ Himne / Hans Hægre Hond hialpar kroptuglega.

Þeir hiner adrer treysta vppa Vagna ꝛ Vijgheste / Enn vier hugum vppa Nafned DROTTins Guds vors.

Þeir

Þeir eru nidur slegner og fallner/ Enn vier stondum riett:er.

DROTTInn hialpa þu/ Konungurenn heyre oss/ nar ed vier akollum hann.

# XXI Psalmur

Gud hialpar øllum Kongum z Storhøfdingiu sem a hann trua/ og straffar Ovine þeirra. Psalmur þesse er samhlioda þeim/ 18. 20. 57. 144. Psalme.

## Psalmur Davids fyrer ad syngia.

DROTTInn/ Kongurenn gledz sig j þijnum Krapte/ Og huad harla gladur er hann/ wt af þijnu Hialpræde?

Þu giefur honum sijna Hiartans Villd/ Og syniar honum ecke þess/ huad hans Muññur beidest/ Sela.

Þuiad þu yperheller hann med Velsemdar Blessun/ Koronuna af Gulle setur þu vppa hans Høfud.

Hann bidur þig vm Lijf/ Og þu giefur honum Langa Lijfdaga/ vm Alldur z ad eilijfu.

Myſkel er hans Dyrd j þijnu Hialprædе/ Þu leggur hm̃ Vegſemd z Prijdе til.

Þuiad þu ſetur hañ til Bleſſunar eilijf lega/Þu gledur hañ med Føgnuде þijns Andlitis.

Þuiad Konungureñ hafi vonar vpp ꝛ DROTTIñ/Og fyrer Myſkunſeme hins Hæſta mun hañ ſtødugur ſtanda.

Þijn Hond mun ſiña alla þijna Ovine Þijn hin Hægre Hond mun hitta þa ed þig hata.

Þu munt giøra þa lijka ſem Elldſins Ofn/a Tijma þinar Reide/DROTT In mun vppſuelgia þa j ſiñe Reide/z Ell dureñ mun vpp eta þa.

Þeirra Avøgſt muntu fortynaſt lata af Jørdu/ Og þeirra Sæde j burt fra Mañana Sonum.

Þuiad þeir þeinktu þier jllt ad giøra/ Og ſamſettu þær Radagiørder/huøriar þeir feingu ecke fullkomnad:

Þuiad þu munt giøra þa ad Øxlum/ þiñ Bogaſtreing muntu ſpenna j giegn þeirra Augſyn.

DRott

